Fyrir þiñ Son, Sæłu-Von sie þier hærst Lof, Mig þu spardir, Meinum vardir, minn Gud, mier gafst Frid Lijku og Lid, leid so Noottinn, Lijf og Saal, lijka Maal, lofi DRottinn.

Mig hefur leidt, Meinum eydt, Myskuniñ þijn, hveria Stundu, at Heimsins Grunnd, hier til, afvend þier ei fraa mier, nær aflegg Proottinn, Lijf og Saal, lijka Maal, lofi DRottinn.

Eg bid þig, añast mig, enn i Dag nu, fyrer þañ fæta, Saalar mæta, Son þinn, veit mier Raad, Vernd og Raad, Vægd og Lidsiñ, Lijf og Saal, lijka Maal, lofi DRottinn.

Helgann Dug, hreinañ Hug, hiaa mier uppkveik, þier ad hlijda, lijka lijda, Lain Dags, og Þuungañ med, þolugt Ged, þreya hlijdinn, goodañ Dag, gladann Hag, giefi oss DRottinn.

Hvad eg hier, forma fer, farsælist vel, Utgang, Framgang, Jñgang blessa æ minn, og i Raad, allt mitt Raad, annast hvort Sinn, goodann Dag, gladann Hag, giefi oss DRottinn.

Eg fel þier, allt hvad mier, aldur gafstu, sie þiñ Dugur mier mattugur minn Gud, bæte saa, betst sem maa, Breiskleika minn, goodañ Dag, gladann Hag, gef oss DRottinn.

Lijf og Aund, Efninn vond, eg nu þier fel, ølla Jllu, Voda og Villu, ver mig, Soomi og Dijrd, sie þier skijrd, sijfelldt Gud minn, Lijf og Saal, lijka Maal, lofi DRottinn.

Lof-Saungur þeirra Heilogu Lærifedra, Ambrosii og Augustini.

Fyrsti Koor.



HErra Gud þig heidrum vier,



Þig Fadir Eilijfe,

Aññar Koor.



HErra Gud vier þockum þier,



Vegsamar allt Jardrijke.

Allir

Fyrsti Koor.



Allir Englar og Himna Her,



Þig Cherubim og Seraphim,



Heilagur er vor Gud.

Aññar Koor.



Og hvad til Heidurs þienar þier,



Lofa jafnlega med Roddu sijn.



Heilagur er vor Gud.

Badder Koorar til samans.



Heilagur er vor Gud DRottiñ Allsheriar Rad.



Þijn Guddoomlega Makt og Dijrd, Meiri er eñ Himin og Jord,

Fyrste Koor. Aññar Koor.

Dijr Søfnudur Toolf Postula,
Og lofleg Tala Spamañaña.

Og Pijslar-Votta Fylking froom.
Sijngur þier Lof med sætañ Room,

Þijn heilog Christne øll a Jørd
Færer þier Lof og Þackargiord.

Þig Gud og Fodur Almattugañ,
Þiñ Eingietiñ Son, þier klærastañ.

Og helgañ Anda sem huggar best,
Eiñ Gud og Preñañ medkieñest.

Fyrste Kor.



Þu Dyrdar Kongur JEsu Christ



Jomfrwr Lijf hefur þu ei forsmaad,



Þu hefur Daudans Afle eydt,



Þu situr a Guds hægra Veg,



Þadañ kiemur, þad er vor Trw,

Añar Kor.



Eilijfur Guds Sonur ert þu vijst.



So Mañkyn leystir med þiñi Naad,



Og i Himna Hvijld Utvallda leidt.



þijns Fødr Dyrd er þier sameigiñleg



Lijfs og Dauda ad dæmer þu.

| Fyrste Kor. | Annar Kor. |
| --- | --- |
| Hialp oss þijnum Þionum Herra Christ, | Hvoria med Bloode hefur þu leyst, |
| Lat oss a Himnum ødlast Dyrd, | Eilijflega med þiñe Hyrd. |
| Þiñ Søfnud HErra hoolpiñ gior, | Og blessa þan sem þiñ Arfur er. |
| Hlijf þeim stioorna og æ stert hiaa, | Og Æfinnlega upphefier þan. |
| Drotteñ þig lofum vier Daglega, | Og dijrkum þitt Nafn æfinlega |
| Hlijf og geym oss a hvørri Stund, | Vid Illgiørdum og allri Synd. |

Fyrste Kor.



Myskuna oss O Millde Gud!

Annar Kor.



Og nada oss i allre Naud.



Þijn Vernd yfer oss ætijd sie,



Þu ert vor Heill og Hiælpræde.



A þig ODrottenñ er øll vor Von,



Alldrei lat þu oss verda ad Smaan.

Bæder Korar til samans.



A - men.

## Viku-Saungur Kvølld og Morgna,

Utdregeñ af Guds Sio Daga Skopunar-Verke, Sio Ordum Christi a Krossinum, og Sio Bænum i Fadervor. Af Sal. Sr. Joni Magnuss Syni i Laufaasi.

Suñu-

# Sunnudags Morgun Psalmur.

Ton, O Gud vor Fader sem i Himerijke ert.

NAfn Guds sie blessad, nu er Vika nij kom-
eñ, hañ hellsta og fyrsta heñar Dag, helg-
añ Suñudag kollum; A honum giordist Hi-
min i fyrstu og Haudrid señ, þar med komst og
þad Lioos i Lag, sem lijser eñ Augum ollum.
Vier trwum aller a eiñ Gud þañ, allt þetta
sem skapade, hañ og vid Makt þvi hallda kañ,
hroosa skal þeim Verknade, helgadur Drott-
ñ, hver eiñ Mañ, hier og i alla Stade.

Dijrd i Upphædum dyrdarfullum Drott-
ni sie! Ordid vard Holld og hia oss bioo,
hvers Fullnad eg a treyste. JEsus sa Guds
og Jomfrur Son a Jardrijke, saklaus sem
Lamb fyrer Synder doo, a Soolar Dag upp
sig reyste. Med fyrsta Ordi a Krossi klaar,
Kvoolurum Lyknar beidde, læknade oll vor
Saalar Sar, Suñudags Hvijld tilreidde, i
Sigur upp Daudans svelgde Fear, Satans
Makt alla deydde.

Hatt Lof sie Gudi, sem hefur oss alla helg-
ad sier, fyrir sitt Ord og Andañ med, er yfer
Skijrn Vatns sig færde, eins og hañ nærde
Afgruñ dyñt i Upphafe, a Postulum hafa
Meñ Svip hañs sied, sierhvern a Tungur
lærde; Endurnijar hañ hvers þess Hag, er
Hvijldar Miñing Guds prijder, himneskur
Blær med himneskt Slag, holldlega Vanart
þijder, andlegum sælañ Andlaats Dag, eflaust
stiptar um sijder.

Heilage Gud, sem Himna stijrer haum
Troon, i Helgidoominum Heimile att, og hia
þeim, sem Syndir grata, Fadir vor ertu fyr-
ir þijns Sonar Fridar Boon, oss hefur tek-
ed alla i Satt, er Trw i Stadiñ jata, Preñ-
ingar Eining þitt Nafn a, þar fyrer af Hiar-
ta bidium, ad þad verdi oss helgad hia, helg-

udum Fridar-Nidium, Vanhelgan allre vijk þu fraa, veit oss ad heilagt ydium.

J Skijrninne hefur oss Skaparans Fingur skrifad inn, i Þrenningar Nafne i þad Manntal, er þvææst i Guds Sonar Bloode, Cerimoniu settri fylger Saattmaalinn, so vier vitum hvad vera skal; veit oss þvi DRottenn goode, Hlijdnennar Anda Haattalag, Heidur þinn fremst ad rækium, helgum þitt Nafn og Hvijldar Dag, Hiaalpræde til þijn sækium, Naaunga vorra hlijfum Hag, hafnande Vansa og Klækium.

Siaa oss og ollum syndugum Monnum sæta Vægd, þiaaer oss dagleg Þrælkan hier, þar fyrer Hvijldar leitum. Laat þu oss finna Lykn hiaa þier og Hugar Hægd, nu medann Tijmenn Naadar er, Nafne christnu sem heitum, so ad vier flijum Faar og Bann, enn Fridur helgra Gudspialla, endurnære vorn innra Mann, ytre nær fraa skal falla, Hvijldar Dag sijdann himneskann, holldum umm Allder Allda.

## Sunnudags Kvolld Psalmur. Ton, Gud myskune nu ollum oss.

ÞJer Lioossins Fader Lof sie tied, Lioossens nu Kvoldar Dege. Sioon vorre hefur þu Lioosed lied, og leidt oss aa riettum Vege, hvert ollum Heime hefur lijst, Heimsins fraa fyrsta Dægre, þesse Daasemd mier lofleg lijst, lijka þo onnur frægre, finnest, og Naadar nægre.

Sæte JEsu vort Saalar Lioos, somm Nægd af ollum Giædum, til Gledi og Prijdis ollum oss, upp ert runninn af Hædum, þeim er saatu vid Meidsl og Mein, i Myrkre og Daudans Skugga, Uppspretta Lijfsins ertu hrein, Adams Born kann þad hugga, sem annars maa Angrid ugga.

Oss hefur skined andlegt Lioos, i Orde Guds lifanda, heilagt Mat-Bord med himneskt Gotz, hofum vier sied i Anda, Bæn Hws DRottins oss hefur og hyst, hrundid þar Saalar Mæde, vort Hugskots Myrkur er haatt upplijst, halldner vel aa Guds Fæde, heyrdum og heilog Kvæde.

Gud naade ad nu gleymdur er, goods Dags Abatenn beste, Ellds og Skijstoolpenn

undann fer, ei Þrijtur Saalar=Nesti. Log=
mal og Gudspioll Leid kinner, latir vier tijn=
um Vegi, Holld Guds og Blood oss Hwng=
river, a heilogum DRottins Degi, Avoxt
færum Þo eigi.

JEsus grædi vor Vondsku Volld, og vo=
ra lagfæri Sidi, giefi oss eñ nu gledilegt Kvo=
lld, so gietum sofnad i Fridi. Laat oss Gud eng=
va lijda Neyd, hwnir Hvijld a sig taki, Astar=
Skiool yfir oss alla breid, ad Þrijstu Briooski
og Baki, so engann hier uppa laki.

Vertu hia oss, Þvi komid er Kvolld, Chri=
sti Þiñi vor HErra, a Þessari Heimsins yt=
stu Olld, ei laat Trw vora Þverra. Gud Fad=
ir Son og Andi hreiñ, oss blessi alla samann,
vegsami hañ og ottist eiñ, allt Mañkynid uñ
Heimenn, syngium af Hiarta Amen.

## Mánadags Mergun Psalmur, med Ton, Heidur sie Gudi Himnum a.

HEidur sie Gudi Himnum a, og hærst Lof
uñ Christiñdoominn, Añañ Dag Viku
Augun sia, yfirlioomandi Heimiñ, a hver=
ium Vatna Hvolfid blaatt, ha=vijsañ fyrir
Guddooms Matt, giordist, sem heitir Hi=
minn.

Himnarnir boda HErrans Prijs, med
hañ Þeir fullir eru, engiñ Skiepna Þo er so vijs,
ad hañs rañsaki Veru, i fra Eilijfd var Ein=
ing klar, i Eininguñi Persoonur Þriar, fyrr
enn Verolldin yoru.

Himin wr Vatni giordur glær, Guds
nefndist Velldis=Sæti, Þadann og Þangad
Nad hañs nær, Naudþurft siña so bæti, ha=
ñs Sañleikur uñ Heimiñ frij, hlioomar so
vijdt sem fliwga Skij, gofgum hanns gudleg
Mæti.

Adam syndgadi i Himininn'haatt, hæddur
af Satan ligna, Naad Guds took hañ i sæta
Saatt, so ad Himin leit rigna, Þar hañ bless=
adann siñ liet Son, Sædi verda fæddann af
Kon, Mañkyns Velferdar vegna.

Þa Christur a sijnum Krosse hieck, kvaliñ
ydrandi Madur, af hañs Muñi Þad Andsvar

fieck, ad andast mætti hañ gladur, Samdægris skylldi Sál hañs vijs, sæl vera med sier i Paradijs, seigum er þad Fagnadur.

Upp til Himnañá aptur foor, eptir Pijsl sijna Christur, Hafning sw er vor Heidur stoor, i Herradoom Guds er setstur, ad tilbwa oss þar væna Vist, Vinum sem hefur endurleyst, Elskhugeñ allra betstur.

I hañs Nafne nu Hag vorn siá, himneski Nádar-Fader, látt oss Nád þijna halldast hiá, so i heilögum Anda glader, gøfgum þitt Rijki á hiá oss, eñ eignunst sijdañ þitt Dijrdar Hnoss, i Himna Vist heim feriader.

Heilagi Andi Hiálpiñ trw, Huggariñ allra besti, frá Diøfuls Svikum forda þu, Flock þeim sem JEsus leysti, med sárum Dauda og Undum sijn, wr Eymd og Neyd leys Christne þijn, sem af Hiarta á þig treystir.

## Mannadags Kvølld Psalmur. Ton, Væri nu Gud oss ecki hiá.

LAtum oss Hiortum hefia til, Himins medur Þacklæti, Gudi ber oss þau giora Skil, glæsilegt sitt Hásæti, liet oss i Dagsins Lioose siá, og lijka sem Þak þar undir gá, er þad stoort Eptirlæti.

Hefur i Dag vor Skaparinn skiær, skijlt oss i Tialldbwd siñi, Aundina drøgum einniñ vær, i Loptsins Vijdáttuñi, Vinda Blær hefur Verølld nært, Vøkva Jørduñi Skyeñ fært, einatt eptir Tijdinni.

Hvoria Asioon sem Himin ber, og hvad sem wr Skyium slijtur, eptir þess Vilia allt þad skier, sem efst á Himnum situr, Himna-Rodinn og Heidrijkiañ, hátt prijsa med oss Skaparann, og allskonar Loptsins Litur.

Vier þrá-syndgum i Himiniñ hátt, hvert vier þo Augum mænum, daglega riwfum dijrsta Sátt, O Drottinn vorn Heidri rænum, ángrar oss nu sw Illskañ slæm; O Gud, oss ecki i Reide dæm, hlijd vorum Hiartans Bænum.

Tak oss nu enn i sæta Sátt, Synd oss fiarlæga giørdu, eins og Himnañá Hvolfid blátt, harla fiærstætt er Jørdu, og sem þad

breid

breidiſt utañ um̃ Folld, añiſt þijn Nead vort daudlegt Holld, og frije fraa Faari hordu.

Þijn Nаd i Dag oſs giordi gott, Gud vor, þad er þijn Æra, ſie hun og med oſs nu i Noott, Nauder oſs añars ſæra, heilagra Engla Himnum a, Herſkarañ laat oſs vaka hiaꝛ, og Satans Valld fraa oſs færa.

Hinneſke Fader, Hag vorn ſiaa, hier a Jord Vegfarande, Heimile gafſt oſs Himnum a, hiaalpa til, ſo vor Ande, þar uppe bwe æ hia þier, ytre Hamur þo dvelieſt hier, hlijf oſs vid hverskyns Grande.

## Þridiadags Morgun Pſalmur, Ton, Hvør ſem ad reyſer hæga Bygd.

LOF Guds bereſt um̃ Lond og Sioo, lioomar af Deginum Þridia, a hvorium Hond Guds høg tilbioo, Heimſins Boolfeſtu midia, þaa adſkiliande þurt og vott, ſo þar af kiæme Otal Gott, þorf var Guds þeſs Dags Ydia.

Vier kiwum Gud hafe grundvallad, og giordt Jord Ohræranlega, Siaafar Hafenu ſette hañ Stad, og ſo gyrdte alla Vega, med Orde ſijnu, ad eckert Grand, yfir kañ gaanga hid þurra Land, uppa þad vel maa voga.

HErra Gud, Verk þijn heidra þig, hladeñ med allskyns Giæde, Avoxt ber Jord og audgar ſig, allar Skiepnur ſo fæder, a Braude, Jurtum og Mallte Meñ, med Alden-Groſſum Fienadeñ, Frioofgun lier ſierhvert Sæde.

Hreiñ Løgur burt wr ſolltum Siaa, ſijaſt i gegnum Bruña, ſaurugu Þvott maa ſækia i þaa, og Svolun fyrer þyrſta Muña, Avoxteñ bera Allden-Trie, Edla Bloomſtur med Lukteñe, Giædſku Krapt gefa kunna.

Þeſſu velldur þad þarfa Ord, a Þridia Dag Gud talade, Vijn og Vidſmior þad vex um̃ Stord, vor ſo ad grooe Skade: Miklu dijrra þo meina eg ſie, Maal Guds Sonar a Kroſsens Trie, er ſiñe Moodur ſvarade.

Þad kañ ad deyfa Dauda-Mein, Dioſuls þar Skeyte granda, ſorgfullra Saalna ad ſefa Kvein, ſem under Kroſſe ſtanda; til þeirra er honum ſaart til Sañs, ſo ſem þad være Mooder hañs, ſem dijrka hañ med drwpum

um Anda.

Þvi skulum vier lesa a Pridiadag, Pridiu Bæn Christs i Hlioode: verde um vorn og vorra Hag, Vilie þinn, Fadirenn goode, eins og Englar a Himnum hæatt, hier nidre læt þig prijsa dæatt, Lijd þin, a Folld og Floode.

A Himne og Jordu, Heidur og Dijrd, sie Hærstum Fodur ad Vanda, hanns liwfum Syne lijka skijrd, med Lofgiord allra Handa. eilijflega siw alldrei dvijn, aukest Lofed og Virding þijn, med Heidran Heilags Anda.

## Pridiadags Kvølld Psalmur, Ton, Mitt Hiarta hvar til hriggest þu.

KVølld Dagsins er nu komed enn, Kvølld Saung vorn hefium aller senn, vor Kvølld Stund verde oss blijd. Kvølld Æfinnar kiemur Lijd, kvølldar lijka Veralldar Tijd.

Pridia Guds Verk a Pridiadag, þient hefur oss nu enn i Hag, blessud sie Herrans Hond, sem oss bioo til Sioo og Lond, sier oss Gagn, enn her ter vor Grond.

Frægur Gud virdtest Foolke liaa, Foot-Skor sijna ad bwa a, þad er su þyckva Jord, sem Fæder og Dryckiar hvorskyns Hiørd, honum ber eilijf Þackargiord.

Lof sie honum fyrer Landed vort, lijdur ei Foolk hier stoorann Skort, Guds Forsioon giætum ad: Vermer hann og vokvar þad, i Veralldar Nordurs Js-kølldum Stad.

Bwum vier hier vid Ewr-Dyr hanns, berast wr Sioonum Faung til Lands, so Næring verdur noog. Gude sie Lof fyrer Gagn og Ploog, þo giore Menn opt wr Man Jllsku-Roog.

Allskonar Gotz, sem Vijn og Vist, ad voru Lande a Skipum flitst, Framande Pioodum fraa. Guds er þetta good Forsiaa, Gude sieu Þacker, Amen, Jaa.

Naade Gud, hvad vor Brioost eru blind, Braud vort etum vier opt med Synd, og daarlega dreckum med, Avijtur fær saa oss hefur lied, enn engenn Laun nie Þacklæted.

Plægium vier Jord og sækium Sioo, svo-

rum

um Guds Punde ecke þo, etum vier Avoxt Lands, eñ gleymum Vilia Giafarans, giorum margt i Forbode hanns.

Grosum þa Jorden grooen stood, Gud leit yfir, og Vatna Flood, allt var þad Giæda Gnoott, eñ vilium vier skoda vora Iþroott, vort Athæfi flest allt er lioott.

Fodursins Milldeñ Fridar sterk, forláte oss vor Illsku Verk, lækne vor Orkuml oll, reise upp þa sem feingu Foll, fæge af Saur og Lijte giorvoll.

Lát oss ei gialda nu i Noott, náduge Gud, þo Dags Verk lioott, siáer vort siálfur þu, oss ollum til þijn aptur snw, fyrer Jdran, Bæn og rietta Trw.

JEsu vor sem á Jordu geckst, og Jardar þiñar á Hnette lieckst, einmana opt og þrátt, lát oss finna Lijkn og Sátt, lijka odlast roolega Nátt.

Vernd og Lid þiñe veittu Hiord, vijdt fer Diofulleñ hier um Jord, solltenn i Sauda Blood, hrittu frá hanns Heiptar Mood, so hverke grande oss Elldur nie Flood.

Lof og Heidur á hverre Stund, um Himen og alla Veralldar Grund, syngist hier Prenning bliid, af ollum Twngum Ar og Siid, eilijfa og Stundlega Tijd.

## Midvikudags Morgun Psalmur. Ton, Gude Lof skallt Ønd mijn iña.

LJoomande Lioossens Fodur, losum vier nu þann Fioorda Dag, Midviku mestann Hroodur, meina eg og vorn allra Hag, O Mátteñs Dásemdum hroosa, er Dijrd sijna auglijste, i Skopun skijnande Lioosa, skiær mun sá Meistare, er þad med Orde einu, á Augabragde feck giordt, ad Sooleñ i Heide hreinu, Heime lijser gloo-biort.

Ljoomande Lioossens Kierra, skiær sijna Fegurd Augunum, glader Geislar ei þverra, sem Glans færa af sier Skyunum. Allrar Byrtu Uppspretta, wr Austre reñur i kring, alls Heimsins Augad rietta, er ætijd i sijnum Hrijng, O Dásemdar Verked dijra, O Máttenns

enns sw Kringa er, Jorduñe Hiwkun hijra, og Hlijende giefur af sier.

Þad stoora Lioos stioornar Dege, Stunder og Eykter sundur sker, lijser Lijdum a Vege, i Liooseñu eru Meñ Ohulter, hvad sem gyrner ad giora, glogglega siaa þeir til, skiær og skijnande Vera, skopud Moñuni i Vil, hvar fyrer Gledinne giæddur, Guds Madur sierhver skal, losa þann Lioose er klæddur, Lioosens i dijrstum Sal.

Sæll er Madur siaande, Soolar Biartleik a Himnenum, med Athygle ahorfande, Edla Fegurd i Geyslunum, eins og Christs Andlits Blooma, er eitt Sinn a Tabor saast, lærande af þeim Liooma, ad lifa i Drottenns Ast, og laata sig lauga af Hiarta, Lambsens ad stoda Stool, og Utvalldra Andlit, sem skarta, eins og skijnande Sool.

Sooluñe haatt maa hæla, Heimsens giorvalls hun Prijde er, Riettlætes Sooleñ sæla, Saaluñe meira Gagn þo lier, sem er vor kiære Christur, er Krossfestur Pijnu leid, og þwngt Mootlætes Mistur, Middeiges epter Skeid, Sool Duña Oskapleg skiede, skyggde a Lioosid vort, dapradest DRottenns Glede, Daudans nalgadest Port.

Faar i Formyrkvan stoerre, Frelsarenn hulde Geysla sijn, falenn i Forsmaan vorre, foresldest Holld ad lijda Pijn, flootande folur i Bloode, Fodurs hræddur vid Grimd, kallande haau Hlioode, Harma Grein ei vard stemd, Gud minn, Gud miñ, þvi giorder, ad giefa mig þañeim wt, Andar Kvol a mier herder, Obær þinaer mig Swt.

Dijr var þad Daasemd fordum, a Dogum þess fræga Josua, ei gat skeikad wr Skordum, sw skiæra Sooleñ Himnum a, og sijdar seig hun til Baka, sem ei er optar skied, maatte þar Mark a taka, Mystkun DRottenns þar ried, þo tel eg þañ Tilburd stærre, Tign Guds i Myrkre hieck, og Lioome hañs hverium hærre, hnignande i Daudann geck.

Heidur sie Gude a Hædum, hverttveggia fyrer Soolar Lioos, þo mikell sie Munur ad Giædum, mundu Fader ad gefa oss, i Dag vort Daglegt Fæde, Drotteñ oss þar til liaa,

Blessunar Medoliñ bæde, Born þijn so mege sᴂ, Andar og Hollds Upphellde, einkum gief oss þad twennt, allt frañ ad Efi-Kvollde, Ord þitt og Sacrament.

## Midvikudags Kvolld-Psalmur. Ton, Kiært Lof Guds Christne alltijd.

SOOLinn er setst i Ægeñ, sie Gude Lof-giord eñ, af þvi nu endar Dageñ, Erfided lijka señ, frᴂ Augum Liooſed lijdur, lwnum so gefist Roo, Dijrdar Forspræckeñ frijdur, Foolke i Hag so uñtbioo.

Þa sᴂ Meistareñ millde, Myrkred var svart og lioott, sem kiemur ad hveriu Kvollde, klara þvi giorde Noott, tilbioo Twnglid skijnande, tendrad sem Nætur Blis, vex og verdur hverrande, Vite sᴂ, til Skiptis.

Lof sie lioomandi DRottne, sem lijser upp biartañ Dag, og med Twngls Lioos Tilbreitne, temprar Nætt-Myrkurs Hag. Astgiafareñ allra betste, Stal Stiornur i Krans, Himins ᴂ Hvolfed feste, og hagar vel þeirra Glans.

Himin-Twngleñ oss teikna, Termin i Heime margt, Tijmans mᴂ Reglur reikna, riett epter þeirra Art, þeir sem med Gætne grunda, Guds Merkeñ hverge raung, i Tolu Tijma og Stunda, Tijd þyker ei miog laung.

Tokum vel lientu Lᴂne, Luckuñe ei treysta ber, hun vex og mijnkar sem Mᴂne, miklum Gud, hvert sem er, Christne Guds Naud þo nijste, Nafn hañs er heñar Skiool, Trwar Lioos tekur af Christe, sem Twngled Byrtu af Sool.

Guds Lioomeñ Geisla hulde, i Grᴂt Skyum þegar Od, Formyrkvan Daudans dulde, Dijrd hañs, þa wtrañ Blood, solvum þa mᴂ þad Mᴂna, ad missa Sælgiætis Skyn: Vær þo ad vætum Brᴂna, veiker, þad er ei Kyn.

Guddoominum Giædsku-rijka, gefum Dijrd aller señ, skygn Augu og Liooſed lijka, liente oss i Dag eñ, hañs Nᴂd oss hvorn Dag væge, hverttveggia misbrwkast, Myrkraña Fleck af-fæge, sem fogur Tru af saurgast.

Vier erum a Vege raungum, Vorkun sieft oss þo rijr, blinder i Byrtu gaungum, Baked vid Liose snijr. Riettlætis Soolen sanna, Sealunum til þijn snw, Upplijsing allra Maña, ertu miñ sæll JEsu.

Milldur ad Midviku Aptne, miñ Gud lat ollum hier, hlotnast þa Heill og Heppne, hvijlast Nottiñ i þier, Myrkraña ur Ander eingum hier giore Tioon, Amen, Gud allsvalldande, eg bid, heyr vora Boon.

## Fiñtadags Morgun Psalmur.

### Ton, Giædsku Guds vier prijsum.

LIfande Lijssins Bruñur, Lofsæll Gud Himnum a, hvers Maññs Hiarta og Muñur, Heidur þier giore tia, sem veit þa dijra Daad, er a Fimtudag fyrsta, Foolke þijnu tilbetsta, giorde þijn gudleg Naad.

Af Vatne lietstu lifna, lifande mikeñ Her, Fugla er fyrst skalnefna, fliwgande uñ Loptid hier, eñ prijdder med Fiskum Flood, sem flogra, synda og sveima, Sioafar uñ diwpa Geyma, metta þo mennska Þiood.

Skepnur Guds allar eru, fyrer adra giordar eñ sig, sierhver i sinne Veru, ad soñu nytsamlig, þeim sem Gud lier þad Lien. Þeirra þarf Lund ad læra, lijka i Nyt sier færa, heidra so Gud i gien.

Sie honum eilijf Æra, sem oss hefur fyrer sett, af Fuglum Froodleik læra, ad fliwga er þeirra Stiett, kvaka og sijngia sætt, eñ Ahyggiu einga hafa, odlast þo hver siñ Krafa, af þvi sem þeim er ætt.

Fugl ei fellur a Jordu, Fodursens utañ Villd, Seal mijn þa Huggun heyrdu, hærri þier lient er Snilld, Dijrd Guds þu erfa att, Ordinglan oll skal þagna, Esalaus skalltu fagna, i Nottne uñ Dag og Natt.

Þvi sa sem bjod til Bruña, og bruggar af Triænum Vijn, þur Brioost og þyrsta Munna, þar med ad fyrde Pijn, Svolun ei sioalfur fieck, þad er vor kiære Christur, sem kvadst daudlega þyrstur, þa kvaleñ a Krosse hieck.

Fyrer oss leid Þianing þessa, þyagiande

bitrañ Smeck, þvi bliíður villde blessa, bæde voru Mat og Dryck, saup hañ og swrt Edik, so Dijrdar Vijn feingium drecka, eñ dauder eisfylldum smacka, Breñistein, Elld nie Bik.

Fridar Faderiñ hærste, fyrergief oss vor Brot, fyrer hvør af kiærum Christe, komiñ er algiørd Boot, Lijku hiá þier laat oss faa, eins og vier vilium veita, Vægd þeim sem oss áarei- ta, Myskun þijn mieg er haa.

Guddoomsins Andiñ goode, sem gafst oss eitt andlegt Fior, i skiæru Skijrnar Floode, stickande oss himnesk Kior, Hiortu vor fær aa Flug, so leitum hellst Lijfs ad Giædum, hiá lifanda Gude i Hædum, med þreyande og þyrstum Hug.

Fiïtadags Kvølld Psalmur. Ton, Heidrum vier Gud af Hug og Sal.

Blessadur sie vor DRotteñ dijr, Dags Lioos fyrer Natt Myrkre flijr, Myrkreñ þo ecke þockneſt þiood, þreitum er ætijd Hvijldiñ good. Lof sie Gude fyrer lidna Tijd, lofud sie Guddooms þreñing blijd, Aund miin Gud prijse Arla og Sijd.

Alldrei fær neiñ i nockrum Stad, naaduge Gud þier fullþackad, þad er so margt og mik- ils verdt, Mañsins vegna þu hefur giørt, Fug- lum Loptsens og Fiske i Siaa, med fleiru ød- ru hann raada maa, Vit og Makt fieck ad veida þaa.

Gude sie Lof sem giørde Vøtn, Gagnaud- ug fyrer vora Nautn, og lætur oss þiena Log og Jord, leggium i Stadeñ þackargiord, deaunst ad HErrans dijrre Ment, daudt þo hann take Element, Skopun gietur og Lijf þvi lient.

DRottne JEsu sie Dijrdeñ stoor, aa Di- wp til Fiske-Afla foor, þvi Arlega blessar El- skañ hañs, Utvege Foolks til Sioos og Lands, heidrum vier Nafned hañs fyrer þad, hefur vor Tilfaung margfalldad, og læted margt dragast Lande ad.

DRotteñ so lætur duga hier, Dege hver- ium þad hañ oss lier, þad sem oss giefst af Lan-

de og Læ, leggiande sijna Blessan æ, unum vid slijkt sem oss er lied, ei veit hvad leinge þurfsum med, er vor Gud Sælar Upphelldeð.

Avi ad hefðum Vængi vær, Vilia og Fijsn til Jdrunar, og fliwgum i Kvolld sem Fugl i Bool, Fødurs vors under Nædar Skiool, Sæte JEsu i Sijdu Or þitt, Saal vor hver-

## Føstudags Morgun Psalmur.

SJe Gude Lof! þañ Siotta, stæum vier Vikudag: Trwar Regluna rietta, rækium, og Sælar Hag, hroosande þvi Handverke, HErrañs sem giordest þa, þad var mesta Stoormerke, Manniñ skoop Jordu æ.

Ei þo fyrr eñ Kvikinde, oll voru bwinn til, hafande hid hellsta Ynde, ad horfa æ Meistara Spil, sijdarsta sem hañ giorde, sinne lijkt Dijrdar Mynd, viliande ad ytsta yrde, sijn Eptirlætis Sijnd.

Lof sie Guds Lynde froomu, hid læga ei forsmaar hann, vænt Þijng wr Efne aumu, al-hagur smijda kañ, Lykneskiu burt wr Leyre, giet sijn Augu ad-dæst, hanns er Heidur ad fe so verde fridt, eins sem i Hreidur Svalann sitt.

Næd Drottins liene oss Nætur Grid, Nauda Tilfellum varne vid, so vor verde Nættura nærd, nætturlega oss giefe Værd. Sæler i Gude sofnum vier, i sætum Fognude uppvakter, og gaungum i Fride Gudhrædder.

## Ton, Dagur i Austre ollum.

meire, þo hafe æ sijnu Ast.

Gofugt var Gudlegt Smijde, er giordest fyrer hañs Maal, lioomande i lioosre Prijde, lifande Holld og Saal; þo var sw Heilleñ hærre, hrumda Manneskiu er skied, Drotteñ med Dæsemd stærre, daudlegt Mein lækna ried.

Vard Guds Næd þad til viña, ad vita sijns Sonar Bol, Son Guds til Fleina ad fiña, fordæmdur Kross i Kvol, og sier af Angre barma, wt þegar pijpte Blood, lijkt sem Gudslamb ad jarma, Lausn so ad fenge Þiod.

Frægd stoora framde æ Jordu, Frelsariñ þegar doo, Syndaña Hapte hordu, hañ flegde

igde

igde i rauda Sioo, siins Bloods, og so af Re-
ide, sagde i Afstoku Stad, Satan Svikareñ
leide, sica mitt Verk fullkomnad.

Friadag þvi holldum frægstañ, framyfer Liooseñ hin, Lausnar Verk Rædar nægsta, nadade Mañlegt Kyn, þa Lijfed i Solut lagde, og Lijknar Fordæmdum bad, Son Guds og til vor sagde: Sioa, allt er fullkomnad.

Fader, leid Foolk þitt eige, Freistingar iñ i Neyd, fridad a Fostudege, fyrer þijns Sonar Deyd, lat oss þa Huggun hlioota, sem hefur hañ forþienad, og himneskra Heilla niota, þa Hlaup vort er fullkomnad.

## Fostudags Kvolld Psalmur. Ton, Eilijfur Gud og Fader kiær.

ÞRennum Gude sie Þackargiord, a þessu Friadags Kvollde, ort og tied um alla Jord, af ollu lifanda Hollde, þvi ad þad allt er Handverk hañs, þo hæleitust sie Skopun Mañs, er sijdarst hañ vanda villde.

Dijrdar verdugur einkum ert, af ollu mañlegu Kyne, eilijfur Gud, sem allt hefur giort, ad Adams Bornum þad þiene, þvi Englarner þurftu þess ei med, til Þarfa oss skapader Fied, og lagder oss þad i Liene.

Oss hefur þient þad enn i Dag, a Utlegdar vorrar Vege, sem þu vañst oss sialfur i Dag, a Siotta Skopunar Dege, af Kvikfiar sedur Kiote og Mioolk, Kvolld og Morgnä þitt hrongrad Foolk, daglega og Dæsemd sege.

Sem Konunglegur Kiallare ma, og Kiot-Bwr DRottins heita, Mealnytu Gagn sem mettunst a, og Millde hañs giorer oss veita, Skoo og Klæde af Skinne og Ull, skopud er oss þar Næring full, launar Gud so vorn Sveita.

Vier niootum þess ad Rædeñ hañs, nakomna oss sig giorde, þa Andanum blies i Asian Mañs, og eilijft Lijf innfærde, i Lijkneskjed af Leyre skapt, losum bæde hañs Giædsku og Krapt, til Dijrdar þad Verk hanns verde.

Mañ-elske Gud! hvers Millde ei þver, mÿsk-unar ollum Þioodum, Avi! vort Edle orded er, Olijkt Skapara goodum: þinna Verka vier þyggium Not, enn Þioonusta vor er ill og liot, Skaparans Skickun trodum.

Frelsare vor sem fyrer oss badst, a Fostu-Dag þañ hiñ lănga, og Reidiñar Pressu trwlega tradst, a Trienu þa virdtest hănga,

med þiñe Hlijdne bæt vorn Brest, Blood þitt heilagt oss a hellest, og afmae allt hid rănga.

Heilage Ande oss hiălpa þu, ad Heill þa ei af oss briootum, efldu med oss Ydran og Trw, so allra Guds Verka niootum, i Nădum bæde Noott og Dag; Năttúru Brest vorn fær i Lag, so eilijfa Hvijld vier hliootum.

## Laugardags Morgun Psalmur.

### Ton, Mÿskunar Fadiriñ millde.

Nåtum a Laugardege, Lof-Saung Gude i Tie, Packlæti hañs þagni eige, þo halle Vikuñe, Hvijldar Miñing hiñs Hærsta, hiet fordum þesse Tijd, helgud med Heidre stærsta, HErrans af Ersda Lijd.

Epter Skopunar Idiu, Almætte hvijldest hañs, eñ ecke i Erfide midiu, eins er Skapnadur Mañs, Sex Daga eigum ad eria, epter þad þyggia Roo, heilaga Hvijld ad byria, a Hiñnum, er Gud tilbioo.

Vier eigum hætt ad hæla, Handverke Almættisins, um Viku Heims Alldurs heila, Hag studde Mañkynsins, Gud til Gagnseme og Fridar, giørde oss Daga Sex, i Hvijld sinne hañ ersidar, Hiălpræðis Verk þvi vex.

Oss ber viliugum vera, i Verke med Herra þeim, sem kiende oss gott ad giøra, giørande þeñañ Heim, myndade Mañ og Brwde, med Mynd sijns Vijlætis, Verk þad hanns Veru ei lwde, vert þo stoors Packlætis.

Vier med Lamech oss lijum, leitande fallvallts Auds, og Armædu a Iord drygium, aflande daglegs Brauds, opt verdur rijr Abate, oller þvi Mañ Spilling, a andlega Ydiu later, erum, og Leidrietting.

Fyrer þvi fram ad Kvollde, Frelsareñ præl-

kadest, a Soal og heilögu Hollde, Heill vor so fullgiördest, uppgiefeñ af Erfide, afhendte i Födursins Hond, sosnande i sælum Fride, sijna blessada Ond.

HErrann fyrer Præla þolde, þessa Mædu og Swt, þa epter Piaaning hvijlde, Pvott-Dagenn mikla wt. Lof sie Lausnara mijnum, sem lagde a sig þad Prek, ad afmaa med Sveita sijnum, Synder vorar og Brek.

Kieñande oss ad enda, Erfide vort med Bæn, og Saaler honum afhenda, Heim-For so verde væn. Honum skulum, so heilsa, Heim þegar kvedium vær: fraa öllu Illu oss frelsa, O Gud vor Fader kiær!

## Laugardags Kvölld Psalmur. Ton, Fader vor sem a Himnum ert.

SJounda Kvölld nu komed er, kiært Lof Gude þvi sijngium vier. Ein Vika er oss enn af þreyd, allt jafnt smaa stittest Lijfsins Skeyd, er oss þad Glede i Eymdar Dal, af þo teiknest vort Daga Tal.

Sie Gude Lof fyrer sijna Naad, Syne Guds Dijrd fyrer vort Hiaalpraad, Anda DRottens sie Pockenn þijd, þad hefur vered oss Fridar Tijd, heilög Guds Prenning heidrud sie, Hundrad margt gott sem oss liet skie.

Guds vors i Lioose geingum vier, Guds under Vake vardveitter, Gud oss sitt Braud til Bordhallds fieck, Bruñur Guds til liet Svala Dryck, a Felle med oss Guds Fridur var, i Fadme Guds svaafum a Næturnar.

Belzebub saa hiñ bölvade, Babyloniskur Tyrañe, kyndt hefur enn sinn Kvala Ou, kieppst vid ad giora oss öllum Tioon, eñ Drottens Engell Dagana Sio, Diofulsins Bondskap hindrade.

Gud heimtar Viku Verkid vort, vor Hlijdne hefur mikeñ Skort, Siotijusiñum Siosiñum, signadañ Gud vier styggt höfum, enn hañ Sio Daga gaf oss Grid, glötudum Lijfed enn hiellt vid.

Hvad skulum segia hier til vier, hæda lætur ei Gud ad sier, saarheiptast hañ vid Synda Lyst, sijst vill þo nockur fortapist, Ottuna

Rettlætes Reide hanns, reynum eñ Giædsku Lausnarans.

JEsu, sem margar Vikur varst, i Verolld og heñar Synder barst, saar Giolld þu leidst fyrer Sakleyse, seinast i Pijslar Vikuñe Klæke vora þu kvitta best, klaaraû gior nu vorn Reiknings Breest.

Hvor Dagur, Vika, Ar og Olld, endast þa þess er sijdarsta Kvolld, ad settre Tölu i sama Mund, so kiemur og vor Dauda Stund. Unn oss þa, JEsu, eg þig bid, ærlega ad skilia Heimenn vid.

Trwarjaatning Athanasii. Med Ton, Nu kom Heidinna Hiaalpar Raad.

Maa og lagast vid þann Ton, HErra Gud þig heidrum vier.

HVor sem villde ad hoolpeñ sie, helga Trw einkunn vel kuñe, Heila flecklaust sem hiellt ei þa, hann serst Eslaust eilijflega.

Eiñ Gud i Prenning, almeñt trw, i Eining Tignar Prenningu. Persoonum meingar samañ sijst, Sundrun Guds Veru neitar vijst.

Fodurs, Sonar og Anda hañs, er sijn Persoona hvor til Sanns. Þessar Priar eru samt eiñ Gud, eilijf Valld og Dijrd samjafnud.

Sem Gud Fader, eins Sonur er, so helgañ Anda jafta ber. Oskapdnd Eilijfd, Omælañlig, er Gud: Persoona hvor uñ sig.

Ei eru Prijr þo eilijfer, Eine Gud æfenlegur er, Oskapadañ, Omæltañ æ, eiñ so trwa, enn ecke Pria.

Fodur, Son, Anda heilagañ, eins trwe hvern Almattugañ. Ei hafa Prijr þo allañ Mautt, Allsvalldanda einn heidrum hatt.

Fader, Sonur og Ande hreinn, er Gud og Drottinn hvor sem einn. Hallt þo ei Gude nie HErra Pria, helldur Eiñ Gud og DRottenn tiaa.

Sannleiks Kieñing sem jaata baud, sw Greining hvor sie HErra og Gud. Hrein almeñt Trw so hratt oss fraa, hallda Gude nie DRottna Pria.

Gud Fader er af eingum til, ei skapadann nie borinn skil. Guds Son af Fodur Einum er, ei vard nie skoopst, þo fæddest hier.

Einn Veg Guds Ande heilage, af Fodurnum og hañs Syne, Ogiordur Skopun einga ber, ei fæddest, þo framgeingeñ er.

Eiñ er þvi Fader, eñ ei Prijr, Eine Guds Son og Ande dijr. J Preñing verdur engenn Greinn, Ædre, Miñe, Fyrre nie Sein.

Persoonur eru allar Priar, eilijfar jafnt i Heidre

re hair, so i Preñingu Einingeñ, i Eining Preñing tignest senn.

Til Saluhialpar soñ er Þorf, sie Trwenn med oss vijs og diorf: JEsus vor HErra eilijfe, oss til Lausnar Holldgadur sie.

Þvi er hrein, riett og heilog Trw, hiartañlegt Traust og Jatning sw: Guds Son JEsus vor HErra har, hann sie Gud og Þo Madur klar.

Af Fodur Olst i Eilijfd Gud, i Heim barst Mañ af Meyar Kvid. Fullkomeñ Gud og fullgior Mañ, fyrer Sail og Mañs Lijkamañ.

Miñe Fodur ad Mañdoome, med Fodur jafn i Guddoome. Eiñ Þoott sie Gud og Madur hreiñ, ei Tveir, helldur er Christur eiñ.

Eiñ er Þoott ei sie umsnweñ, Art Guddoomlegi i Mañdoomeñ, helldur so, ad heil Guddoomlig, hefur Mañdoom teked a sig.

Soñ ein Persoona sw er vijst, sam-meingast Tvær Natturur sijst, sem Holld og Ondu eiñ Mañ sier, eins Gud og Mañ eiñ Christur er.

Sa eiñ leyste af Syndum oss, sarañ Dauda Þvi leid a Kross, og stie til Vijtes ofañ strax, uppreis fra Daudum Þridia Dags.

J Hatign upp til Himna stie, hia Fodur jafn i Almætte, aptur vill koma eins Þadañ, ad Lijfs og Dauda dæme hann.

J hvers Tilkomu aller Meñ, i eigeñ Hollde rijsa señ. Af sinum Verkum sierhvor Þa, sañañ Reikning framlata ma.

Goodfwser til Lijfs ganga Þa, Gudlauser i Bal eilijfa. Hrein Almeñ Trw er hier framsett. Hialpast engeñ Þa hiellt ei riett.

Þetta Symbolum Nicænum (edur Messu Credo) epter gamalle Utlegging, latum vier hier med fylgia, hellst epter Þvi Þad er alkuñugt og tijdkanlegt vijdast i Sudur-Stiptenu, a Hatijdis-Dogum.






enn vorn JEsum Christum, Eingieteñ Guds Son, og af Fodurnum fæddañ, fyrer allar Veralldar, Gud af Gude, Lioos af Lioose, eñ saññ Gud, af Gude sonnum, gieteñ enn ei giordañ samjafn sijnum Fodur, fyrer hvorn ad allt er giort, hvor fyrer oss Meñena og vorrar Heilsu saker, stie nidur af Himne. Took Holldgañ af Heilags Anda Krapte, af Mariu Meyu, og Madur svo vordenn. Hañ er og fyrer oss Krossfestur, under Pontio Pilato, var hañ

pijndur og grafeñ. Og upprijsande a Pridia Deige, epter Ritniingunum.

Og uppstijgande til Himna, situr a hægra Veg Guds Fodurs. Og i annad

Sinn er hañ komande med Dijrd til ad dæma, Lifendur og Dauda, a hvors

Rijke verdur engenn Ender. Og vier trwum a Heilagann Anda, DRottenn

allt Lifgauda, af Fodur og Syne framfaranda, hvor med Fodur og Syne æ

tilbeidest, og æ qvalli samdijrkast, hvør ed mællte fyrer Spamennena. Og

vier trwum Heilaga Christne, stadfesta fyrer Postulana, og jatande

eina Skijrn vera til Fyrergiefningar vorra Synda, og Epterbid Upprisu

allra daudra Manna, og þa komande Eilijft Lijf, all = ra Allda,

A = = men.

## GLORIA.

Sem sijngiast mœ Stundum, bæde i Kyrkiuñe og heima i Hwsunum, þa ecke er Embættesgiörd framcñ : Ton, Alleinasta Gude i Himnarijke, etc.

HEidur sie Gude Himnum a, og hædst Lof fyrer Nad sijna, ad hiedañ af oss alldrei mœ, Ogn nie Kvøl nockur Pijna. A Jordu hosum vier fenged Frid, Fodurnum þocknast Mañkyned, nu hlaut oll Heipt ad dvijna.

Vier Losum, Dyrkum og Þockum þier, þig tilbidium alleina. Valld þitt Gud Fader eilijft er, alldrei kañ þad ad riena. So er þijn Makt

Makt Omæliliga, algiort er allt hvad þier er i Hug. Vel þeim er i Trw þier þiena.

O JEsu Guds eingieten Son, eilijfe Gud vor HErra! Þu bætter allt vort Andar Tion, Eymd vora virdtest bera. Lamb Guds sem Daudan leidst a Kross, Lyknsamur siert þu ollum oss, vora Bæn vilier þu heyra.

Heilage Ande Hiaalpeñ trw, Huggareñ allra betste, fraa Diofuls Svikum forda þu, Flock þeim sem JEsus leyste, med saarum Dauda og Undum sijn. Ur Eymd og Neyd leys Christne þijn, sem af Hiarta a þig treyster.

## Eiñ Bænar Psalmur, ad syngia þa Born eru skijrd, med Lag, Hallt oss Gud vid þitt hreina Ord.

Þu varst fyrer oss eitt Ung-Barn, O JEsu Herra Naadargiarn. Af hreiñe Jomfrw fæddur ert, Foolk þitt so hefur hoolped giort.

Ung-Born hefur þu ei forsmaad, a Funde þijnum feingu Naad. Yfer Borneñ hefur þu Hendur lagt, blessad þau, fadmad og so sagt:

Leated Born meiga til mijn naa, meined þeim ei miñ Fund ad faa. Himnarijke Eign þeirra er, og allra sem eru þvilijker.

Þetta Barn þier bijfalad sie, blijde JEsu vor Lausnare. J þijna Christne þad iñleid, þyrm og frelsa fraa allre Neyd.

Wertid hlijf þvi med Englum þijn, fraa Olucku Slisum og Pijn. Med þiñe Ast og milldre Naad, mykuna þvi og blessa þad.

Veit þvi med Alldre Vext og Spekt, ad verde hlijded þier og þeckt. Og life hier heilaglega, hiaa þier sijdar æfenlega.

## Hioona Psalmur, med Ton, Kom Ande Heilage.

Sæll ertu sem þiñ Gud, i Sañleik Ottast, gack fram haňs giorvoll Bod, sem glogt þu vottast.

Þu munt og þiña neyta, Þrifleiks Verka, sæll ertu, so mun þier veitast, Sæmdiñ sterka.

Þijn Hws-Frw þijna Bygd, skal þann Veg

Veg sedia, sem Vijn-Tries vænust Dygd, kann Virda gledia.
Hitt Bord umbergis þa, ad Syner sitia, sem Vidsniörs Vidur sia, er vel mea nytia.
Sia, hier þa Sæmder sa, i sinne Veru, Guds Otta ef gyrnast at, þeir gipter eru.
Signe þig sialfur Gud, af Zions Vellde, so ad Jerusalem, med Heidre hallde.
Og þu munt eiginn Born, sia Barna þinna, og Jsraels ægiæt Vorn, ad Frid mun sinna.

## Same Psalmur, med ödrum Hætte.

CHristens þad eitt mun Manns, mest Andlegd ve-ra, og Lijfs hryggvn hanns, hellst Blessan bera, Eilijfann Ottast Gud, og honum una, hanns jafnan heilög Bod, hallda og kunna.
Hand-Biorg þier Fædu fær, fullrar ad niota, sanre þu Sælu nær, Sæmd muntu hliota.
Hwssens Upphellde sie, holl Eiginn-Kvinna, sem gott Vijnvidar-Trie, var Kvista sinna.
Allt Bord þitt um i Hring, eins sitia Syner, Eyk Vidsniörs og um kring, Ungvider klíener.
Hwanda Blessan sw, bregdst alldrei neinum, ein Gud sem Ottast nu, af Huga hreinum.
Veite þier Giæfu Gud, Grande vid varde, af Zion alla Tijd, og Grida Garde.
Andlegdar Elle med, unne þier giarna, ad feinger Syne sied, sijdann Born Barna.
Foolk Guds wr Fare leidt, Frid hallde leinger, goodfwser aller eitt, Amen, Menn singe.

## Eptir Kyrkiu Innleidslu Kvenna, siingest þetta Vers, miz Ton, Gud myskunt

HErra Gud Fader Hlijfd þiin sie, ad hitte þig eingenn Pijna, Guds Son JEsus vor Grædare, geyme hann Sælu þijna, helgann Anda eg um þad bid, Inngang þier þenann giefe, ad eignest Guds Nead og Andar Frid, Utgang sem Froomum hæfer, nu og um alla Æfe.

## Ma og siingia þesse Vers: Ton, Af Fodurs Hiarta Barn er bored.

JEsu Nafne Gud minn giæfe, þad Gagn sæke eg til Mnsteris, ad Hreinsunar Dagar sie oll mijn Æfe, at mier hrijne Log-Boot Christs, so kunne eg kiæra, Fooru þier færa, Fodur himnesknm, hver-iuum

um sie, Lof, Dijrd, Heidur ad eilijfu.

Ecke er til i Eign mine, Offur-Lambed Sakleysis, utan þad sem af Elsku þine, eg medtook, Forþienan Christs. Blood hans Saura, best mun klæra, Brot mijn øll, því Gude sie, Lof, Dijrd Heidur ad Eilijfu.

Hiarta mitt med Huga hollum, helgad sie mijn DRotten þier, sem lifuar fyrst af Limunum øllum, lijka seinast burtu deyr, lát þad kuña, æ þier uña, allt til Dauda, so þier sie, Lof, Dijrd Heidur ad Eilijfu.

Moodur Lijffins Avøxt allañ, eg fel Gud i þijna Hønd, láttu Hioon aun Heiptar Galla, hafa rietta Dwfu-Lund, og epter Løgum, hegde Høgum, hver og eiñ, so Gude sie, Lof, Dijrd Heidur ad Eilijfu.

## Blessunar-Psalmur fyrer Maltijd.




Hvad um Lopt, Vøtn og Jord, lifer og hefur Ferd, forsorgar og framfærer, fiolgar, Klæder og nærer.

Blessar øll Børneñ þijn, burt-tekur Synd og Pijn, færer þeim Fædu hreina, fyrer þinn Son alleina.

Til Lofs og Dijrdar þier, lijka sem Christnum ber, þyggium i Dag þacklæter, þitt Lææn sem oss veiter.

Lææt oss i hreinum Hug, hallda oss vid þiñ Veg, so med Samvitsku goodre, sedium vorn Foodre.

Veit oss þad verde fyllt, sem vottar Pææll oss skyllt, gleymum ei þijnu Orde, yfer voru Borde.

Lææt oss ei lijkiast þeim, Lijd sem stundade Heim, hverium þu hlijfdex eige, hvad Skriftiñ af þeim seger.

Medañ mettudu sig, miñtust þeir sijst æ þig, giørdu sier heidna Glede, griñ fiell æ þa Reide.

Hiaalp oss nu HErra kiær, so Heidur þiñ

eflum vær, fyrer Frelsarann Christum, Fader! æ þig treystum.

## Packlætis Psalmur epter Mæltijd.



Heidrum vier Gud af Hug og Sæl, hañs Lof vor Twnga sijngia skal, ad sijna



Giædsku sijnde lioost, sadde oss vel med Dryck og Kost, sæ øllu Hollde Fædu fær, fædt



hefur oss nu DRotteñ kiær, þad allt hañs Millde þockum vær.

Þockum hønum nu Pioonar hañs, þad er oss øllum skylldt til sañs. Jattum ad oss elskade hañ, af Næd siñe skapade Mañ, med Hwd og Hollde, Bloode og Bein, bygd er vegleguft Skiepna ein, og sijdañ giefeñ Sæleñ hrein.

Þa Madur Lijf i fyrstu fær, Fæda heilnæm er hønum nær, i Lijfe siñar Moodur mæ, Madureñ siña Næring þa. Þo Barnkynd sw sie ung og aum, ei hefur Skort æ Gæfum þeim, fram til þess hun fædest i Heim.

Gud hefur Verølld vel tilreidt, vanta lætur ei æ Næring neitt, Fiølleñ og Dale frioofgar hañ, Fienadeñ Gras ei vanta kañ. Ver wr Jordune Vijn og Braud, veiter þad hvørt Ar milldur Gud, og hiælpar so af Hwngurs Naud.

Fiska veita oss Vøtn og Sioor, verdur af þessu Mæltijd vor, Eggiñ og Fugla eiguunst vier, oss til Atviñu, skapad er, Naut, Geitur, Svijn og Sauda

Fie,

Fie, fiaalfur Gud lætur oſs i Tie, ſo ad vor Nær-
ing uvogleg ſie.

Þockum hønum og þyggium nu, þad hañ giefur
oſs ſaña Trw, ad høfum ſlijkt i Hiarta riett, hallda
Bod hañs i vorre Stiett. So ſafnañ oll hañs hei-
leg Hiørd, heidre hañs bleſſada Nafu a Jord, þad
ſkal vor allra Þackargiørd.

## Añar Packlætis Pſalmur eptir Maaltijd, Ton, Chriſte vier aller þockum.

GUD vor Fader þier þockum vier, fyrer þinn
Son Chriſt vorn HErra, Millde þijna
ſem margfolld er, med hvorre virdeſt ad næra,
allar Skiepnur ſem eru med Ond, oſs hefur
ſadt þijn millda Hond, Lof ſie þier Dijrd og
Æra.

HErra ſem mettad hefur nu, Holld vort
ſem endaſt hlijtur, Saal vora eiñeñ ſedier þu,
ſem alldrei deyr nie þrijtur, Ord þitt er heñar
Afl og Megn, þar til þu verdur heñar Eign,
Naaviſtar med þier nijtur.

Himna Fodur a hvorre Tijd, heidrum
uñ Chriſteñdoomeñ, ſem oſs kvittade Syn-
der vid, ſw Nаad af Trw er komeñ, fyrer hañs
Son JEſum HErra vorn, hvor med ſier liet
oſs verda Born. Ætijd loſum þig, Amen.

## IV. Nockrer Hiartnæmer Pſalmar, uñ Daudann, ſem ſijngiaſt meiga yfer Greftran Framlideña.



Midt i Lijfe erum vier, umvafder med Dauda. Til þijn DRottenn
Hvert leitum ſo fiñum hier, Hiaalp vid þeſſum Voda?










Midt i Dauda ad oss slær, Ogn af Vijtis Kvolum, hver þeim af oss hrunded fær, Hialp þa oss vier solum? Þad ertu Drottiñ alleina, mædir Hiartans Myskun þijn, Mañkyns Kvol og Synda Pijn. Heilage HErra Gud. Heilage stirke Gud. Heilage Lijknsame Lausnare. Þu Æfiñlege Gud. Lat oss ei esbiooda, Ogn af Vijtis grimre Glood, Kyrie-eleison.

Midt i Vijtis mestu Ogn, Misgiorder oss reita. Hvar faum vier þeim Hialp i giegn, Hvor kañ oss Lid ad veita? Þad ertu Drottenn alleina. Þvi Blooded þitt, vor Christe kiær, kvittad allar Synder fær. Heilage Herra Gud. Heilage stirke Gud, Heilage Lijknsame Lausnare. Þu Æfinnlege Gud, Hialpa oss þa Heim vid skilium, ad hallda riettа Trwar-Slood, Kyrie-eleison.

Bæn-

## Bænar Psalmur um̃ goodan̄ og Christelegan̄ Afgang af þessum Heime.



Minn HErra JEsu Madur og Gud, sem Mædu, Pijnu, Spott og Deyd, fyrer



mig þolder og Krossens Kvol, og kvittader mig vid eilijft Bol.

Fyrer Kvol þijna bid eg nu, mier aumum ad hiælper þu, nær Daudans kiemur hin str= ijda Stund, stoorlega grim̃ a alla Lund.

Nær Augun missa alla Sioon, Eyrunum kiemur Heyrnar Tioon, Tunga an̄ ei leingur mæla ma, mitt Hiarta tekur ad þrotna þa.

Nær allur Mattur min̄ eydest so, engenn Madur mier hiælpa ma, O! HErra JEsu þijn Hiævist blijd, hugge mig þa i Daud= ans Tijd.

Leid mig af þessum Eymdar=Dal, og styttu mijna Daudans Kvol, Andskotans Reide fr= els mig fra, fyrer þin̄ Anda, og vert mier hia.

En̄ þegar skiliast Lijf og Aund, O Gud tak hana þier i Hond, Hvijld Hollde af þier eg þyggia vil, þar til Dooms Dagur tekur til.

Glada Upprisu gief þu mier, geym mijn þa Dagur Doomsins er, mijnar Synder min̄= stu ei a, milldur gief mier Lijf eilijft þa.

Lijka sem fyr mier lofader þu, legg eg a Ord þitt mijna Trw: san̄lega, san̄lega sege eg þier; Sa mijn Ord helldur og treyster mier;

Ogn Daudans reyner einga han̄, eilijfan̄ Dauda ei smacka kan̄, lijkamlegt Andlat eitt

Siñ fær, vid Andar Dauda ei verdur var. Vil eg med volldugre Hond, vid skilia hañ vid Daudans Bond, Arf mijns Rijkes skal eignast sa, æfiñlega mier sialfum hia, Og lifa i Sælu og soñum Frid: Sæmd þa veit þu oss milldur Gud, allar Synder oss forlæt þu, ad poleñmooder vier bijdum nu. Med hreiñe Ast og traustre Trw, til þess ad kiemur Stunden sw, og feingium þinna Orda giætt, allt þangad til vier sofnum sætt.

## Hiartnæmur Psalmur uñ gooda Burtfør.







Mig pijna jafnañ Sekt og Synd, Samvitskuñe fast æmæla, þær eru fleyre Siafar Sand, samt skal eg uñ Hialp ei vijla, þvi Dreyrenn raude og Dauðe þiñ, O Drotteñ JEsu Frelsare miñ, er mijn Lijfgiof og Sæla. Eg er þinn eigenn Limur einn, af þvi fæ eg Huggun gooda, alldrei slijtur mig af þier neiñ, i Angist og Daudans Voda, eñ þo eg deye, er eg med þier, eilijfañ Fognud fannstu mier, O Drottenn med þijnum Dauda. Eins sem af Dauda uppreist þu, i Gref mun eg ei blijfa, Himnafor þijn er Huggun trw,

krw, Hrygd Daudans kañ burt drijfa, hiedann fer eg med Fognude, fullvijs hia þier miñ Lausnare, ætijd þu lætur mig lifa.

Hia Christ, a Fialle Helias var, i Heidri Odaudlegum, Lærisveinar hañ sau þar, so eflaust trwa meigum, eilijft Lijf sie i odrum Heim, Elias lifer i Fognud þeim, þa Dijrd vier þyggia eigum.

## Huggunar Psalmur i Daudans Tijd. Ton, Gud myskune nu ollum oss.

LJfande Drotteñ lyfna mier, lat mig Naad þijna fiña, af þvi mitt Traust er allt a þier, Eymdaña giættu miña, Synder giora mier Sorgar Mood, Saleñ er tvist af Angre, frelsa þu mig fyrer þitt Blood, fyrna af Pijnu langre, so linne Strijdu strangre.

Eg berst vid Daudans bitra Matt, bratt verd nu hiedañ hallda, Heimenn forlata hlijt eg bradt, Heled mig sæker kallda, Lijkamenn veikur og laseñ er, Lijfs Krapt tekur ad þrioota, Salenn af Bwknum flya fer, fiñst þvi ei neitt til Boota, lat mig Naad fiña fliota.

Eins geingur mier i Eymdum mijn, og þvi Barne er fædest, hormulegre i Hrygd og Pijn, Horku Þreingingu mædest, hafande hverke Matt nie Megn, miwka Hialp sier ad veita, utañ Lioos-Mooder liwf og giegn, Lund blijd med Astsemd heita, Lidsemdar giore ad leita.

Af þvi kom Gud miñ Elsku kiær, uppa þig nu eg væle, og hijngad þijnar Hendur hrær, HErra minn JEsu sæle, fyrer þitt rauda fossad Blood, fordum sem wt af dunde, uñ Trie þijns Kross þa tijged Flood, Tafarlaust nidur hrunde, ad mier þijn Elska grunde.

Vid miñe Saal þijn Hialpar Hond, hijr sem Lioos-Mooder take, þa verdur Lijkamañ vidskild Ond, viist so ei uppa sake, i varmre Laug þijns Lijffins Bloods, lat hana Hreinsun fanga, so Heiptar Pijnu Heliar Moods, hun kañe alldrei stranga, uñ alla Eilijfd langa.

## Eiñ goodur Psalmur, hverneñ Madur skule bwa sig til Daudans.

Vid



Vid Dauda mig ei veria maa, verd eg falla fraa, hvs vil eg mig framgefa,
A Hollð og Blood ad eydast so? ei spilleſt þo, minn Ande mun epter lifa.



allfagur og klaar, eilijf- ur er, Gude Fødur hiaa, friaals Dauda fraa, og eilijft Lijf mun hafa.

Andlaate kvijde eg ecke vid, a hverre Tijd, vil eg mig vel til bwa, og tilreida sem eg kann betst, i Trwnne meſt, til Guds Sonar mier snwa, þvi hann er miñ, Præl þecker siñ, hanns Kvol og Deyd, mier hiaalpar wr Neyd, hugg ar mig þesse Trwa.

Gud Fader Son siñ sende mier, sem Daus da hier, leid Sokum Synda miña, ad yrde eg friaals vid Andar Kvol, og hoolpeñ vel, þad hlaut hañs Son ad viña: Er slijkt ei meſt, Guds Giøf og Aſt? Hañs Myſkun stoor, og Millde var, mier vill sijns Rijkis Arfs unna.

## Eiñ Huggunar Psálmur, med sama Lag.

Gladur nu deya vil eg viijſt, vid Dauda sijſt, meg-na eg mier ad hlijfa. Fordiorfun eingva eg fiña maa, þo falle frá, mijn Aund hiaa Gude mun blijfa, þvi Pijnn er eg þiñ, þu HErra miñ, ætijd hiaa þier, eflauſt eg er, ei kann mig fraa þier hrijfa.

So leinge sem hier Lijfed dreg, læra vil eg, Gud-lega i Moldtne deya, og bwaſt til med beſtre Lyſt, blijdañ uñ Chriſt, faſt Trwar Fadm ad beigia, mitt ædſt Trauſt er hañ, Aund leysa vañ, fyrer siñ Deyd, og frelſte af Neyd, gladur þvi vil eg þreya.

Af Naad hefur Gud mier veitt og ſkeinkt, at Kroſs uppheingt, Jeſum Chriſt Son siñ kiæra, so fyrer mig lijde

kde saraañ Deyd, ad svipta Neyd, sie hønum þvi Sæmd og Æra, Oh! Hvilijka Naad, hefur Gud mier tiad? þa kraunku Aund mijn, kallade til sijn, i eilijft Lijf inn ad færa.

Gief mier nu Drottenn Giædsku or, glada Burt-För, fyrer JEsu dijrstañ Dauda, ad lifi og deye eg i þier, Aund miñe og mier, Boot-veit fyrer Blood hañs rauda, miñ JEsu Christ, mig hefur leyst, i þijna Hønd, eg fel mijna Aund, sofna eg so aun Nauda.

## Añar Huggunar Psalmur moot Daudanum.







Skyllda eg ecke eignast Lijf, eilijflegt og fordast Kijf, hvar være Daude helgur þinn, og hellst Bloodrijke Bardaginn?

Hvar til var þitt helga Holld, huled og grafed nidur i Folld? Ef þiñ Daude ecke mier, eilijft giæfe Lijf hiaa þier.

O JEsu! vid mier vertu þvi, viss og trwr, eg til þijn flij, yfirgief þu alldrei þann, sem Unda-Flood þitt hreinsa vann.

J Fride laat mig sofna sært, so vid eingu verde hætt, Andlite blijdu og Augum þijn, æfennlega snw til mijn.

Frelsare miñ af Faare og Neyd, fyrer þinn bid eg saraun Deyd, laat mig Ostum ollum naa, og Æfiñlega Lofgiord tiaa.

Bæna

## Bænar Psalmur um̃ gooda Burtfør, Ortur af Sr. Sigurde Jonssyne i Prestholum, Ton, Fader vor sem ert i Himnum, etc.

O JEsu, JEsu, JEsu minn, JEsu mitt Lijf og Hertogin̄, Aunden̄ mijn kvakar epter þier, Olog Daudans þvi formerker, yf=ergefdu mig ei vid þad, þo Aunden̄ og Holld=ed skiliest ad.

Senn reñur Glased Ara af, eg stend vid Daudans rauda Haf, Vatns Flooded bel=iar unnum ad, alldrei veit nær mig svelger þad, Ogna Bylgiur sem ofra sier, O JEsu! Lææt ei dreckia mier.

Kom þu nu med þiñ Krossens Staf, klap=pande uppa Dauda=Haf, læættu mig þurr=ann Farveg fa, og Fodurlande Klaklaust na, blessade Daudans Bane þu, Burtfor gief mier Saaluga nu.

J þennañ diwpa Daudans Hyl, Drott=eñ þig med mier taka vil, leid þu mig Hææska øllum wr, einka Hoop mitt og Verndar Mwr, syndu mier Bygd og Bæenn þinn, i blessud Hijbijle leid mig inn.

Myskunar þiñar Skugge skioott, skyle nu miñe Synda Gnoott, fyrer þiñ Dauda fleig þeim inn, i Forþienustu Hyleñ þinn, Nææda Blooded wr Benium þijn, blæde wtyfir Jll=verk mijn.

Allsheriar Gud eg þacka þier, þeiged Lææn allt sem veitter mier, miog opt hef eg þad mis=brwkad, minnstu nu ecke Gud a þad, fyrer Brot øll og Breiskleik minn, Borgun er JE=sus Sonur þinn.

Eg vil nu feigenn fara til þijn, og faa þier aptur Saalu mijn, leid þu hana um̃ Lioos=ens Hlid, i lifande Manna Bindinid. O þau æskeleg Um̃skipte, ad sia þig þar i Dijrd=enne!

Skapare miñ þier skila eg nu, Skepnu þeir=re sm̃ giorder þu; O JEsu, tak þu eins ad þier, og añast þañ þu fridkeypter; heilage Ande haf Gææt a, helgudum þijnum i Skijrnar Saa.

Velkomeñ Daude, velkomenn, vijsa þu mier a Bwstad minn, læættu upp Dyrnar Lijfsins þaa, længar mig þar til inn ad naa,

þu

